# Hugvekjur. Lífsreglur. Heilræði.

í

sundurlausum greinum.

# SUMARGJÖF

**1851**

handa **Íslendingum,**

frá

*ábyrgðarmanni Þjóðólfs.*



Prentuð í prentsmiðju landsins.

1851.

*Sá sem ekki vill þiggja góð ráð, er verri en dýr; en sá sem ekki þarf góðra ráða með, er meiri en maður.*

---

Vjer ættum ekki að breyta einungis eptir iðjusemi býflugunnar, heldur einnig eptir greind hennar: þegar vjer útveljum hið góða, ættum vjer að hafna hinu illa.

Sá sem kemur tveim grasstráum til að gróa, þar sem áður grjeri ekki nema eitt, vinnur ættjörðu sinni gagn.

Þú átt að vera virðuglegur, en þó ekki dramblátur; viðfeldinn, en þó ekki auðvirðilegur; kurteys, en þó ekki tilgerðarlegur.

Hvað sem þú gjörir á æfi þinni, þá gættu tignar náttúru þinnar, og geymdu vel virðingu þína.

Þrautir lífsins eru þjónustusamir andar, sem guð hefur til þess að stýra með börnum sínum, og betra þau.

Segðu ekki allt sem þú veizt; gjörðu ekki allt sem þú getur; trúðu ekki öllu sem þú heyrir; og eyddu ekki öllu sem þú átt.

Sá er sannur heimspekingur, sem hefur lært að sigra girndir sínar, og sætta sig við hver helzt lífskjör, sem vera skal.

Þær unaðsemdir, sem ekki eru saklausar með öllu, vara aldrei eins lengi og sárindin, sem þær láta eptir sig.

Sá sem safnar miklum auð, gjörir mikið; en sá gjörir meir, sem gætir vel fengins fjár.

Þeir meta lítfegurð líkamans of mikils, sem vilja sleppa ráðvendni hjartans fyrir hana.

Sá sem kaupir lífið, og lætur skylduna fyrir, kaupir of dýrt.

Að fegra eigin yfirsjón, er að bæta á hana; að bæta við annars með bakmælgi, er að gjöra hana að sinni eigin.

Ef þú hefur einu sinni verið með letingja, þá hefur þú fengið nóg.

Sannarlegt góðverk skín ætíð, eins og prjállaus fegurð, með sínum eigin ljóma.

Það er allt sviknlt, sem hjartað á engan hlut í; og þar er ætíð hættan vís, sem vissri reglu er ekki fylgt.

Það er sannkölluð mæða, sem þú þarft að bera kinnroða fyrir, og þekkist hún á því marki.

Tíminn afmáir heilaspuna hyggjuvitsins, en staðfestir úrskurð náttúrunnar.

Að bjóða reiðum manni ráð, er að blása á móti bálviðri.

Hlæðu aldrei sjálfur að fyndninni úr þjer; láttu heldur aðra gjöra það.

Þegar þú hafnar hjátrúnni, þá gættu þess að hallast ekki að vantrúnni.

Meðan rjettlætið breytir ekki eðli sínu, geta bætur fyrir ójöfnuð ekki verið neinum til vanvirðu, heldur til sóma.

Þar fer optast öll stjórn bezt fram, er beztu mennirnir ráða.

Þar sem hatur hefur yfirhönd, hefur heiður eigi viðnám.

Að álíta verkið ómögulegt, er vegur til að gjöra það svo.

Að breyta eptir beztu mönnum, er bezta eptirbreytnin; og áformið eitt að vera ágætur, er ágætt áform.

Ánægja af góðverki viðhelzt, meðan greind og minni varir.

Sá sem getur horft framan í eilífðina þarf engan hlut að hræðast.

Ef vjer elskum vizkuna og viljum ná henni, verðum vjer að leita hennar með alúð.

Það er athöfn en ekki elli, sem meta skal eptir ágæti lífsins.

Eins og skugginn fylgir líkamanum, eins fylgir góður orðstýr góðum verkum.

Aldrei vissi jeg neinn hæða aumingja, nema þann, sem sjálfur var rjettur að háði hverjum aumingja.

Allir geta látið sjer skiljast, hve umliðnar unaðsemdir eru fánýtar; en hversu fáum skilst, að hinar sjeu það eins, sem fyrir höndum eru!

Að gjöra ekkert, liggur svo nærri því að gjöra illt, að millibilið sjest varla.

Heiður er brothættur, og auður er blómstur, sem fölnar undan hverju næturfrosti lukkunnar.

Kappkostaðu að vera frægur, en kostaðu fyrst kapps um, að kaupa frægðina með tiltrú.

Uppgjörð sleikjulæti er viðbjóður, og tilgerðarfull auðsveipni andstygð.

þreyttu aldrei fjelaga þinn með því að tala of lengi, eða of opt.

Sá er einn fær um að stjórna, sem hefur lært að hlýða.

Sá sem ekki vill missa af hrósi, sýnir að hann í rauninni er ekki hrósverður; og sjálfsþótti er viss förunautur fávizku.

Sannleiki er oss meðfæddur; og með því að hafna sannsögli ofbjóðum vjer eðli voru.

Tungan er eins og skeiðhestur, sem hleypur því harðar, sem hann hefur ljettara að bera.

Orð eru skuggar verkanna, og málsnildin prýði hvorutveggja.

það er trúin ein, sem veitir sanna hugsvölun í sorg, og kennir rjetta sjálfsafneitun.

Aðfyndni alvörugefins vinar er betri en skjall sættmalandi hræsnara.

Vitur maður ljettir sjer mæðubyrðina með von, og beygir drambsemi meðlætisins með íhugun um óstöðugleika þess.

Af því að mannelska getur aldrei átt sjer stað sem dyggð út af fyrir sig, þá er hún viss að hafa í för með sjer ótal fleiri mannkosti.

Einnar stundar svefn fyrir miðnætti er betri, en tveggja stunda eptir.

Að hjálpa vinum sínum, og eyðileggja sjálfan sig fyrir, er hermannlegt; að hugsa um engan nema sjálfan sig, er svívirðilegt.

þær stundir sem þú eyðir í leti og iðjuleysi, mega naumast heita nokkur tilvera.

Sá einn er rjettilega örlátur, sem útbýtir eptir efnum, og þar sem þörfin er mest.

Ágirnd er aumt böl; en að lifa ánægður með nægilegt, er jarðnesk sæla.

þar sem blygðun er ekki burt vikin, þar getur dyggð komizt að með tímanum.

þær hörmungar, sem þú eigi mátt hjá komast, skaltu bera með hugrekki.

Enginn hygginn maður fellur öðru sinni í þá hrösun, sem hann einu sinni hefur liðið fyrir.

Opt hefur lítið tilefni komið miklu til leiðar, þó hægt hafi farið.

Góður maður á miklu hægra með að fyrirgefa, en hefna sín.

Auður og uppheð eru brothættar stoðir, en sakleysi er áreiðanlegur stólpi.

Vendu einhvern á að drekka, og fljótt skaltu gjöra hann fátækan.

Eins og farangur er fyrir herlið, eins er auðlegð fyrir dyggð; herinn getur ekki án hans verið, og má ekki skilja hann eptir, en hann hefur af honum farartálma.

Óhóf í klæðaburði sprettur af hinum fyrirlitlegasta hjegómaskap.

Vendu barnið á meðaumkunarsemi, og mun það verða kærleiksfullt.

Hlýddu á með þolinmæði, og svaraðu með úrlausn; athugaleysi er vottur um fyrirlitningu, og fyrirlitning verður aldrei fyrirgefin.

Uppgjörð auðmýkt kemur sjer verr en augljóst dramb, eins og hræsni er viðbjóðslegri en djörfung.

Láttu það vera þitt mark og mið í allri keppni að leita sannleikans; það er vesæll sigur að þagga niður mótstöðumann sinn með stóryrðum.

Virtu sannleikann hvar helzt sem þú finnur hann; hvor mundi ekki taka upp gimstein, þó að hann lægi í mykjuhaug!

það er eins munur á kænsku og vizku, eins og á rökkri og björtum degi.

Gakk eigi ofan á auðvirðilegasta kvikindi, og smjaðra ekki fyrir voldugasta höfðingja; dramb og smjaður er hvorttveggja jafn vesælmannlegt.

Framför vor í þekkingu fer optast eptir því, sem vjer þykjumst þurfa hennar með.

Hvort sem þú les sjálfur, eða hlustar á aðra, þá taktu vel eptir.

Sjerhver dagur er stutt æfi, og öll vor æfi er ekki annað, en einn dagur upp aptur og aptur.

Sá sem er gjarn á frjettaburð, hlýtur annaðhvort að vita mikið, eða muna vel; ella verður hann hverjum manni hvumleiður.

Talaðu aldrei nema þegar þú hefur eitthvað til að segja.

Eins og óhreinn blettur saurgar hreint fat, eins flekkar óhreint samtal saklausa sál.

Einni lýgi veitir ekki af tólf öðrum sjer til stuðnings; og reynist ein ósönn, renna allar hinar.

það er með lífið, eins og með vinið: sá sem vill hafa gott af því, má ekki ganga of nærri dreggjunum.

Orðstýr þýtur upp eins og bóla, varir líkt og skuggi, og deyr út af í barmi tímans.

það tjáir ekki að hafa opin augu líkamans, ef augu sálarinnar eru aptur lukt.

Góð áform eru að minnsta kosti frækorn góðra verka; og sjerhver maður á að sá þeim út, hver sem uppskerunnar kann að njóta.

Ef náttúrunni er ekki stjórnað með kunnáttu, verða ávextir hennar einkis virði.

Sá sem hefur ánægju af lesti og angur af dyggð, sýnir að hann er viðvaningur í hvorutveggju.

Það sem menn brestur á í viti, bæta þeir optast upp í bræði.

Vjer missum af fleiri vinum fyrir það, sem vjer biðjum þá um, heldur en fyrir hitt, sem vjer neitum þeim um.

Ekkert forðar ungum manni eins frá allri auðvirðilegri eptirsókn, eins og umgengni dygðugra kvenna.

Hversu viss sem þú þykist vera um hlutinn, þá talaðu samt fyrir honum hógværlega, og segðu aldrei álit þitt mjög spekingslega.

Það er betra að vera ófæddur, en ófræddur, því að vanþekking er undirrót ógæfu.

Sá sem getur sigrað sjálfan sig, þarf ekki að knjekrjúpa öðrum.

Sá sem vill eignast marga vini, getur, ef til vill, fyrir hitt fjandmanna bæli.

Staðfesta er systir þolinmæðinnar, dóttir stöðuglyndisins, vinur friðarins og band vináttunnar.

Af því sem menn tala, getum vjer dæmt um þögn þeirra.

Sá sem er það sem hann sýnist, efnir það sem hann lofar.

Sá sem í æskunni stjórnar lífi sínu skynsamlega, skal í ellinni sneiða hjá hrösun.

Ef augað kýs, er ánægjan stutt; ef viljinn ræður, er endinn skortur; ef skynsemin má ráða, er ávöxturinn friður.

Vertu ekki ör á vinar nafninu, svo að þú vanhelgir ekki vináttuna.

Vanhelga ekki varir þínar með svardögum, og hafðu ekki í frammi ótjerlegt gaman.

Sá sem geymir vandlega varir sínar fyrir hinu fyrsta ósæmilega orði, honum verður aldrei hætt við guðlasti.

Sá sem sleppir taum við eina óhreina hugrenning, á það í hættu að enda æfi sína í þrældómi holdlegra girnda.

Sá sem á engan vin til að hugga sig í neyðinni, er eins og maður út á eyðimörku, sem sjerhvert óarga dýr getur grandað.

Æskan er gullöld æfinnar; og sjerhvert augnablik, sem vel er brúkað, er eins og gott fræ, sem gróðursett er á heillastundu.

Lýgin kemur sjer því betur fram sem hún er líkari sannleikanum.

Hversu gildar sem ástæður þínar eru, þá er það ósvinna að hælast um yfir mótmælanda.

Sá sem hælist um sigur yfir konu, mundi líka gjöra það yfir karlmanni, ef hann þyrði, og sýnir með því að hann er bæði illmenni og ragur.

Hygginn maður lætur með hógværð í ljósi álit sitt, enda þó að hann sje viss um, að hann hafi rjett fyrir sjer.

Ef þú elskar boðorð trúarinnar, þá muntu ekki gjöra lítið úr leyndardómum hennar.

Tíminn veikir það sem er ósatt, en styrkir það sem er satt.

Unglingurinn á skammt farið til glötunar, þegar hann getur sagt án blygðunar: jeg hirði ekki um, hvað aðrir hugsa um mig!

Börn meina minna, en þau segja í bræði; gamlir menn meira.

Sannarlegt frelsi á engan óvin eins hættulegan og sjálfræðið.

Þeir sem giptast þar sem þeir ekki elska, eru vísir til að elska þar sem þeir ekki giptast.

Sá sem er bráður til að lofa, bregst opt í að efna.

Skaplöstur hvers manns er lykillinn að lunderni hans.

Menn þekkjast betur þær stundirnar sem þeir ekki vara sig, heldur en af helztu athöfnum þeirra: hið fyrra er náttúrufar, hið síðara íþrótt.

Ef þú vilt láta hafa þig til alvarlegra starfa, þá tjáðu þig ekki flysjungslega.

Öfundaðu ekki þá sem hafa, og fyrirlíttu eigi þá, sem ekki hafa.

Þekking er fjársjóður sálarinnar, greind lykillinn að honum.

Mannkynssagan bætir oss nokkuð upp hvað lífið er stutt.

Ekkert bætir eins lund mannsins, og að umhera rangindi með þolinmæði.

Gjörðu þann aldrei að vin þínum, sem þú hefur misboðið eður auðmýkt.

Tíminn er bezti vinur sannleikans; en villa vesti óvinur.

Búðu þig sómasamlega, en ekki auðvirði-

lega; og taktu hvorki fyrstur nje seinastur upp nokkurt fatasnið.

Tíminn er farsælastur allra kennara; en því er miður að lærisveinar hans eldast of fljótt.

Sá sem lifir af einhverju öðru en erfiði sínu, á aldrei frið á sjer fyrir öfundarmönnum.

Náttúran hefur gróðursett hjá manninum frækorn þekkingarinnar; en það þarf að hlynna að því, til þess það beri ávöxt.

Kannastu við yfirsjónir þínar; það er svo ekki annað en játa, að þú verðir vitrari.

Enginn forvitnast um leyndarmál nema sá, sem ætlar sjer að ljósta þeim upp.

Hafðu ekki hálfverk á neinu, sem þú gjörir: ef það er rjett, þá gjörðu það með alúð; sje það rangt, þá láttu það ógjört.

Þeir sem ætla sjer að verða virtir fyrir skart í klæðaburði, eiga víst ekki að hrósa miklum mannkostum.

Fjærvera kælir litla ást, en eykur ákafa, allt eins og vindur slekkur út skarið, en blæs upp bálið.

Siðprýði eða sönn kurteysi er sú íþrótt, að sýna mönnum með útvortis táknum það innvortis álit, sem vjer höfum á þeim.

Eigi er öllum gefin inndæl ásýnd; en allir getum vjer verið blíðir, mannúðlegir og viðmótsgóðir.

Betri er reykur í eigin hlóðum, en eldur í hlóðum annara.

Styddu þig ekki við veikan staf, og reiddu þig ekki á veikan mann.

Sá sem þekkir heiminn, verður aldrei of feiminn; sá sem þekkir sjálfan sig, verður aldrei of framur.

Hjarta heimskingjans er í munninum, en munnur hyggins manns er í hjartanu.

Óttinn getur ekki sjeð þeim borgið, sem ást og virðing ekki varðveitir.

Flestar syndir koma ríðandi, og fara í burtu fótgangandi.

Unaðsemdirnir koma eins og naut, og víkja í burt eins og húðarhestar.

Konungar eru aldrei án hræsnara, sem afvegaleiða þá, metorðagirni, sem tælir þá, og girnda, sem spilla þeim.

Það er vottur um illgjarna sál, að vilja ekki dást að því, sem aðdáanlegt er.

Sá sem gengur inn í annan heim, áður en gjört er boð eptir honum, má búast við þurlegum viðtökum.

Eins og mest teknr undir í tómum tunnum, eins glymur mest í þeim mönnum, sem minnst hafa vitið.

Sá sem spyr um það, sem enginn efi er á, verður að láta sjer nægja með svar, sem ekkert vit er í.

Sakleysið er fyrst allra dygða, þar næst kurteysin.

Ofsókn og eymd gjörir menn tortryggilega.

Dygðir manna eru áþreifanlegar eins og lestir þeirra.

Sá sigrar snarpan óvin, sem sigrar reiði sína.

Vanþekking er orsök til efasemi, og efasemi er orsök til vantrúar.

Heitu hjarta hælir hyggja köld.

Framhleypni er fall hins unga, frestur hins gamla.

Ungir eru þrælar nýunga, en gamlir vanans.

Verklag drykkjumannsins er lítið, en útgjöld mikil.

Dauðans dyr standa opnar dag og nótt.

Rjettu hugrekki er ætíð samfara aðgætni.

Fegurð kveikir ást, en kurteysi viðheldur henni.

Vonin er góður árbiti, en illur kvöldverður.

Hvað er dygð annað en lækning, og löstur annað en sár?

Ekkert fjelagslíf getur staðizt án innbyrðis tilhliðrunar.

Að fyrirgefa ójöfnuð er eitt af merkjum mikillar sálar.

Lukkan gefur mörgum of mikið, en engum nóg.

Svaraðu engu spurulum manni.

Blót og klám eru syndir án freistni og fullnægju.

Að leggja trúnað á drauma er að vera sí sofandi.

Vantrú er ekki vizka, heldur versta tegund heimskunnar.

Vertu gamansamur, en láttu gaman þitt vera meinlaust.

Byrjaðu aldrei á því, sem engan enda hefur.

Að hugsa gott er vegur til að breyta vel.

Brigzlaðu engum um glæpi ættingja hans.

Lind ánægjunnar hlýtur að spretta upp í sálunni.

Ef þú vilt sýnast lærður, þá reyndu til að verða það.

Þakklátsemi er minni hjartans.

Flýttu þjer aldrei að fella illan dóm.

Forvitni um smámuni er vottur um smásmuglega sál.

Óhófsemi og svall er undirrót líkamlegra veikinda.

Jörðin er ávallt freðin iðjulausum bónda.

Hugsaðu ekki um þá hluti, sem huganum eru ofvaxnir.

Vertu dulur í ráðum og duglegur i framkvæmd.

Blíðleiki og kurteysi eru beztu kvennkostir.

Vertu það í raun og veru sem þú vilt vera álitinn.

Kastaðu ekki steini í lindina, sem þú drekkur úr.

Iðjumaðurinn kallar iðjusemina öðru nafni sælu sína.

Barn án sakleysis er eins og blóm án ylms.

Lærdómur er auðsgildi í fátækt og prýði í auðlegð.

Það er hið fyrsta stíg til dyggðar að elska dyggð hjá öðrum.

Einungis óspiltar sálir hafa ánægju af einveru.

Margir harma af óláni, fleiri samt af ólund.

Álíttu það aldrei eign þína sem þjer er fengið að láni.

Sparsemi er vissasti vegur til auðlegðar.

Í ákafri þrætu gætir ekki sannleikans.

Sakleysi og lítillæti er andlitsfegurð sálarinnar.

Sá sem aldrei er iðjulaus mun ekki opt vera vondur.

Góðverk segir til sín sjálft.

Heimskur maður gefur fljótan úrskurð.

Þegar búið er að slökkva sárasta sultinn, er matarnautnin lítil ánægja.

Trúin er ekki, eins og sumir halda, kvalræði, heldur hvíld sálarinnar.

Minni sálarinnar er eins og net, sem stórir hlutir festast í, en smáagnirnar fara í gegnum.

Að láta eptir reiði sinni, er að stíga fæti sínum á breiða veginn, sem leiðir til þrætu, stríðs og manndráps.

Auður og ánægja eiga ekkert skylt saman, jafnvel þó að örbyrgð og armæða sjeu náskyld.

Þrælar geta verið þriflegir á hold og þokkalega búnir, en þeir þora ekki að tala.

Mislyndið er svo ríkt í flestum mönnum, að þeim líkar það ekki á morgun, sem þeim geðjast að í dag.

Af öllum þeim tíma, sem eydt er til ónýtis, er engum fánýtlegar varið en þeim, sem menn standa og skoða sig í spegli.

Ef þú vilt þurka upp ósamlyndiselfuna, þá hlýtur þú fyrst að byrgja allar þær bunur og uppsprettur, sem hún kemur frá.

Svikum eru svik vís; og það eru afdrif svikarans að enginn trúir honum.

Broddur tungunnar ber ekki ætíð með sjer dýpt hjartans.

Sá sem hefur glatað samvízkunni, á ekkert í eign sinni, sem vert er að halda í.

Þeim verður aldrei verks vant, sem ætlar að lifa svo öllum líkar.

Sá sem brýtur á móti mönnum, má búast við að hann verði uppvís; en sá sem brýtur á móti guði, má vera viss um það.

Það er minni hættu von af beizlislausum hesti, en taumlausri tungu.

Erfiði forðar oss frá þrem meinvættum: iðjuleysi, ódyggð og fátækt.

Öfundsjúkur maður leggur af að því skapi, sem nábúi hans fitnar.

Forsjónin getur upphafið hinn lítilmótlegasta, og auðmýkt hinn voldugasta; það er þess vegna heimska að örvænta sjer, eða treysta sjer.

Þeim er rjett maklegt sverð stríðsins, sem ekki vilja þiggja olíuviðargrein friðarins.

Haltu ekki svo hjátrúarfullur við nokkurn vana, að þú metir siðvenju meir en sannleika.

Engir þola síður aðfyndni en þeir, sem mest setja út á aðra.

Sannleikurinn stendur ekki á tungum manna, nje heiðurinn í brúnum höfðingjanna.

Því er eins varið með mannkosti og jurtir: hinar litglæstu eru stundum eitraðar, en aldrei hinar ylmsætu.

Heiðvirður maður ber aldrei kinnroða fyrir það, að hann þurfi að taka orð sín aptur.

Þegar lukkan kemur brosandi, boðar hún opt mestu óblíðu.

Smekkleysa er smekkmanni sama sem lagleysa er söngmanni.

Þegar þú ferð að heiman, þá hugsaðu um hvað þú átt að gjöra; en þegar þú ferð heim aptur, þá íhugaðu hvað þú hefur gjört.

Þegar aflið stjórnast ekki af vizku, steypist það um sjálft sig.

Reynslan er flestum mönnum líkt og skutlampi á skipi: hann ber einungis birtu á kjölfarið aptur undan því.

Sá sem vill missa af vin til þess að losast við óvin, getur þótt furðanlega kænn, en ekki kærleiksfullur.

Vjer eigum hægra með að gjöra oss upp þær tilfinningar, sem vjer höfum ekki, heldur en að leyna þeim, sem vjer höfum.

Sönn siðprýði er eins fjarlæg tilgerðarfullri stífni, eins og búralegum fruntaskap, eða sneipulegri feimni.

Eymdin er eins og ástin; sá segir enginn rjett frá henni, sem ekki hefur reynt hana sjálfur.

Sá sem ekki vill kannast við veikleika sinn yfir höfuð, hlýtur annaðhvort að vera stórbrotinn höfðingi, eða einfaldur heimskingi.

Hugsaðu þig vel um áður en þú byrjar; en þegar þú hefur íhugað til hlýtar, þá framkvæmdu með snarræði.

Vertu ekki of bráður til að fyrtast, ekki heldur ofboðslega vingjarnlegur; annað ollir þrætu, hitt færir þjer fyrirlitningu.

. Það er góðum manni engin minnkun, að standa á baki öðrum betri.

Eins og kærleikurinn hylur, eins afstýrir kurteysin fjölda synda.

Þegar iðjusemi og náttúrugáfur hjálpast að, þá er afreksverka von.

Sönn guðrækni er einungis sýnileg af verkum sínum, eins og sjálfur guð.

Sá sem aldrei getur verið einn, hlýtur stundum að vera með vondum.

Sá sem geymir hefnd sína þangað til tækifæri kemur, er auðvirðilegastur allra hræsnara.

Úti er varúðarstundin þegar í hættuna er komið.

Konungurinn er brunnur heiðursins, sem ekki skyldi vera svo barmavíður, að hirðmennirnir geti selt úr honum vatnið.

Þar sem rjett stjórnsemi er við höfð, þar leikur allt verklag liðugt í hendi, eins og liði fram silfurtær straumur.

Ef þú ert mikill, þá vertu lítillátur, því það er betra að vera ástsæll en óttalegur.

Hafðu forfeður þína í traustri minning.

Best kvongast þeir sem giptast jafningjum sinum.

Eigirðu að dæma, þá rannsakaðu; eigirðu að stjórna, þá skipaðu.

Vald konunnar er, eins og gæfa hennar, byggt á virðingu og ást manns hennar.

Með því að náttúran gaf manninum tár, lýsir hún því að hún gaf honum einnig viðkvæmt hjarta.

Áreittu ekki nábúa þinn undir yfirhylmingu laga og rjettinda.

Heimtaðu ekki af neinum það sem honum er um megn.

Það eru fáráðir siglingamenn, sem hugsa að ekkert land sje til, af því að þeir geta ekki sjeð annað en sjó.

Önuglyndi eins manns raskar friði á heilu heimili, eins og eitt hljóðfæri, sem er hjáróma, spillir allri sönglistinni.

Sönn dyggð skín fegurst, þegar vandræðin eru mest.

Slepptu engu tækifæri til að gjöra gott, og muntu hafa fáar stundir til að gjöra íllt.

Þó að vonin sje svikul, þá er hún þó til þess að gjöra lífið viðunanlegt í lengstu lög.

Sá sem aldrei hefur reynt brigðlyndi lukkunnar, hefur enga hugmynd um óstöðugleika hennar.

Bænin eru vængir, sem sálin flýgur með upp til himna, og hugleiðingin er augað, sem vjer sjáum guð með.

Trúin gjörir nú bænina sterkari, Íslendingar, og ef auðmýktin er með líka, þá mun bænin hrífa!

---



